-50

# VESTURFARARNIR

## LEIKUR Í ÞREMUR ÞÁTTUM

831,6
J63V

SAMINN 1875

EFTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON.

REYKJAVÍK
KOSTNAÐARMAÐUR SIGURÐUR KRISTJÁNSSON
ISAFOLDARPRENTSMIÐJA
1898

# VESTURFARARNIR

## LEIKUR I ÞREMUR ÞÁTTUM

SAMINN 1873

EFTIR

MATTHÍAS JOCHUMSSON

---



REYKJAVÍK
KOSTNAÐARMAÐUR SIGURÐUR KRISTJÁNSSON
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA
1898

Scandinavian
Eymunds.
11-30-42
46006

# PERSÓNURNAR.

*Séra Guðmundur.*
*Madama Ása*, prestsekkja.
*Ingólfur*, sonur hennar.
*Auðunn,* gamall bóndi.
*Helga* Auðunsdóttir.
*Gabríel,* Ameríku-boðari.
*Jón á Gili,* }
*Ari,* } bændur.
*Bjarni,* }
Vesturfarar og fleira fólk, ungt og gamalt.

Leikurinn gjörist á bæ þeirra Ásu og Auðunnar.



## FYRSTI ÞÁTTUR.

**Óbreytt en snotur stofa með dyrum beggja megin, legubekk. borði og stólum.**
**Séra Guðmundur og mad. Ása sitja sitt hvoru megin borðsins.**

### I. atriði.

Ása: Tvær messugjörðirnar? — hvað meinið þér með því, prestur minn?

Séra Guðm. **sem í þönkum:** Hann Gapi — hann séra Gabríel —

Ása: Séra — segið þér? Kallar hann sig »séra«?

Séra Guðm.: Hann Auðunn gamli og aðrir einfeldningar kalla hann svo, eftir gárungunum, sem sé. Sir eða sör er enskur titill, trúi ég. Nú, það á ekki svo illa við, ekki kvað hann vanta mælskuna, manntetrið, og þá vanta ekki messugjörðirnar, madama Ása.

Ása: Þér meinið þessi fundarhöld og fyrirgang. Heyrið þér mig, góði séra Guðmundur: af hverju kemur allur þessi órói í manneskjurnar? Er landið lakara en það hefir verið? Er erfiðara að komast af nú en áður? Eða skyldi þessi Ameríka vera nokkurt verulegt Gósen?

Séra Guðm. **hugsandi:** Hvað haldið þér, madama Ása? Þér eruð jafnvitur og ég, en reyndari miklu?

Ása: Nei, segið þér ekki þetta, séra Guðmundur, en eftir öllu að dæma, sem ég hefi heyrt og séð — það er nú ekki mikið — þá er lífsstríðið þar eins mikið eins og hér, ef ekki meira, þegar öfganna er gætt, máske líka miklu meira. Eða því skilja þetta ekki aðrir eins og ég?

Séra Guðm.: Ekki aðrir eins og þér? Fólkið er á milli vita, madama góð; tíðin er að hafa fataskifti. Slíkir umbrota-tímar eða tímamót eru verstu tímar og líka beztu tímar.

Ása: Nú skil ég ekki vel — og þó — ég skil og skil ekki.

Séra Guðm.: Á slíkum tímum glatar margur þeirri perlu, sem hann á dýrasta: trúnni á Guð og tilverunnar niðurröðun. Almenningur er ekki til menta settur og ristir ekki djúpt, heldur lætur venjuna hugsa fyrir sig í flestu; almenningurinn skilur ætíð of seint tákn tímanna og er annaðhvort of fljótráður eða of seinlátur. En venjulega una menn vel við venjuna, venjunnar trú og venjunnar basl.

Ása: Hvað kallið þér venju-trú?

Séra Guðm.: Svo kalla ég trú almennings, svo sem trúna á það, að jörðin standi kyr, en sólin gangi, þótt það sé öfugt í sjálfu sér, eða trúna á réttlæti allra laga, hvort sem úrelt eru eða ekki. En, það sem ég vildi segja er þetta: Þessi vanatrú truflast við tímanna hamskifti; þá fer alþýðunni eins og útigangsfénaðinum, sem sveltir sig til nálarinnar á vorin, en vill ekki heyið, sem áður ól hann og nærði í vetrarveðrunum, og sem er mögru fé miklu hollara en nýgræðingurinn.

Ása: Og þá er undir vorsins mildi komið, hvort fénaðurinn fellur eða lifir.

Séra Guðm.: Að vísu svo, en engu er hætt þó vorhart verði, þar sem góða fyrningin er fyrir; gamla heyið gengur út og er gott í vorköstunum.

Ása: En Guð náði féð, sem horað eða hálfnakið hleypur til fjallanna fyrir tímann. Og svo finst mér að sumir okkar Vesturfarar geri.

Séra Guðm.: Rétt, madama Ása, rétt.

Ása: Guði sé lof — maðurinn minn sálugi inngekk til friðarins fyrir þennan ófrið, á undan þessari ótíð. Því hefði *hann* aldrei trúað, að slík umbrot kæmu upp í þessari sókn, sem nú standa til, og —

Séra Guðm.: Heyrið þér, madama Ása! **stendur upp.** Hvað ætlar Auðunn gamli? Er víst að hann fari til Ameríku?

Ása **stendur líka upp:** Það veit ég ekki, en jörð selur hann á hverjum degi og er eins og allur á hjólum; þessi Gabríel er auðsjáanlega búinn að æra hann með öllu.

Séra Guðm.: En Helga Auðunsdóttir?

Ása: Já, það er nú það, sem mér þyngst þykir, ef hún skyldi eiga að fara, sem mér er sagt að hún muni verða neydd til að gera.

Séra Guðm.: Hefir hún ekki lofast honum Ingólfi?

Ása: Jú, lofast hafa þau, minn góði vinur, séra Guðmundur, en nú er einhver afturkippur kominn í þann gamla, og svo ef hann fer — Guð veit hvað úr öllu verður.

Séra Guðm.: Svo er það — svo er það. **Litur á**

úr sitt. Ekki stoðar þetta, — óttist ekki Helgu litlu. Farið þér ekki í kirkju að vanda?

Ása: Ekki í þetta sinn, þó mér sé í móti skapi, en ég hafði lofað henni Helgu og drengnum mínum að tala við þau í næði, og verð í þessum ósköpum að nota blessaðan messutímann.

Séra Guðm.: Guðsfriði þá, madama Ása.

Ása: Guðsfriði! Með áherzlu: Standið mér nærri í stríðinu, séra Guðmundur, — ég er ekkja, og — þetta er dagurinn hans. Bregður klúti fyrir augu sér.

Séra Guðm.: Ég skil yður, en — yður er óhætt, þér eigið fyrningar þótt vorhart verði. Fer.

Ása ein: Gáfaður maður er séra Guðmundur — gáfaðri máske en elskan mín var, en guðsbarn er enginn meiri. — Æ, Drottinn minn! Hvað á hér úr að ráða? Getur séra Guðmundur gert nokkuð í þessu? Hann þekkir .Helgu að austan og lætur sér mjög ant um hana sem skyldmenni sitt. Hvað skyldu þau vera mikið skyld, eða hvernig er það? Aldrei sá ég ólíkara barn föður sínum en Helgu Litur út um gluggann; það heyrist hringt til messu. Og þetta skuli vera skilnaðardagurinn okkar elskunnar minnar — þarna úti, undir krossinum! Mikið hefir mitt líf breyzt, ég er orðin öll önnur en ég var, og væri ekki *þessi* ófriður, væri alt vel. »Minn frið gef ég yður — ekki gef ég eins og heimurinn gefur«. Ó hversu satt, en — en — en, »faðir, ef það er mögulegt« — að Helga verði kyr —

Auðunn með höfuðið í dyragættinni: Má ég, madama Ása, nota húsið hérna stundarkorn — kattar-óþverrinn mölvaði í morgun þá einu rúðuna sem eftir var.

Ása: Ef á liggur, þá stutta stund.

Auðunn í gætt.: Og má hann séra Gabríel setjast hérna inn líka, hann er frómur og ráðvandur, eða ekki veit ég annað.

Ása: Litla stund skal ég ekki trufla. Fer, en Auðunn og Gabríel koma inn.

## 2. atriði.

Auðunn: Gjörið svo vel. Þessa stofu lána ég hjá sambýliskonunni; ég er of gamall til að byggja nýju stofurnar hérna á Íslandi, séra Gabríel.

Gabríel slær á herðar Auðunni: Well — no! Aldrei of gamall signor Auðunn; eins og unglamb enn; kastar ellibelgnum í Ameríku!

Auðunn: Hihi — þér segið það. Eða, hvað ég vildi segja, en ekki þegja. Þér hafið þá ekkert á móti því, séra Gabríel, að borga þessa umtöluðu krónu fyrir hverja sál, sem ég, ásamt yður, yfirbevísa í dag?

Gabríel: Well — yes, krónu fyrir hvern nýjan — þegar fyrst eru fengnir tíu. Allright!

Auðunn: Nei, þá tíu aura umfram?

Gabríel: Oh yes — tíu umfram — tuttugu umfram, my old boy. Allright, allright!

Auðunn uppveðraður: Þá sæki ég okkur í staupnu. Fer.

Gabríel: Í staupinu? All right, old miser!

Auðunn í gætt.: Hvað? *Rollu meisar?*

Gabríel: Ha, ha, — Gabríelsmessa — sagði ég signor Auðunn. Auðunn fer. Já, boðunardagur, allra heilagra messa, og — sextíu sálna betur Lítur út um gluggann. Enn þá hringt hjá séra Gvendi. Nei, nú er hringt inn minni messu. Kveður:

:,: Hér til messu :,:
hringir Gabríel.
Um sér allir snúi,
engils boðskap trúi;
:,: textinn humbúg :,:
heitir sem ég vel.

:,: Hert þig prestur :,:
hér við sálnadorg.
Ég er hvergi hræddur,
hlífum mínum klæddur,
:,: að þú fáir :,:
fyllra sölutorg.

Litur út. Jú, þarna gengur hann sauðurinn til sinnar messu. Komdu til; vitum hvorri beitunni betra er að egna, »húmbúginu« mínu eða himnaríkinu þínu. Þú boðar þitt evangelíum að austan, en ég mitt að vestan, sitt er úr hvorri áttinni, annað fyrir sálina, hitt fyrir líkamann, ekki er nú munurinn meiri. Well! Hákarlinn er ekki hörundssár, en holdlega vill hann beituna og hana skal ekki vanta. Auðunn kemur á meðan og baukar við að skenkja á tvö pínustaup, sýpur ýmist af þeim eða bætir á. Gabríel hækkar róminn, en talar þó sem við sjálfan sig. Það er sem ég segi, og vísindin hafa sýnt og sannað: landið vita óbyggilegt — nema með maskínum, en hvað kostar ein maskína? Þrjátíu hundraða jörð og þar yfir. Well, skóglaust, vegalaust, bankalaust, kornlaust, peningalaust, allslaust! Og fólkið — fæstir ná fimtugsaldri fyrir gigt, alt er kúgað, eyðilagt, drepið! Vitleysa að fara ekki, gríðar-firna-fjarska-fimbul-vitleysa að fara ekki.

Auðunn: Gullsatt Gabríel! Og gjörið nú svo vel!

Gabríel: Yðar skál, sir!

Auðunn: Svo þér haldið, séra, signor, herra, hvað er réttast af þessu titlatagi?

Gabriel: Well, séra er réttast, signor minn á meðan á messunni okkar stendur, ha, ha; »sör« þýðir séra eða signor eða svei þér. Well, sjáið þér: svona er frelsið í orðunum í Ameríku, ha, ha! Do you understand? Skiljið þér, signor Auðunn?

Auðunn drjúgur: Svo þér haldið, séra Gabríel, að ég verði á við einhvern yngri, úr því ég er seztur að í henni Aðmeríku?

Gabríel: Well — yes — yes, sannarlega signor góður! Má ég svo ekki byrja á yðar nafni og setja í mína lífsins bók tekur fram vasakver.

Auðunn: Og ferðin kostar eitt hundrað og sjötíu í eitt og alt, er ekki svo?

Gabríel: Well — yes, og tæplega það — ef nógu spart er áhaldið.

Auðunn: Og ég fæ hundrað hundraða jörð ókeypis hvar sem ég set mig niður?

Gabríel: Yes — yes; ég sver yður til, signor besti.

Auðunn: Það er þá afráðið: ég og telpan mín förum.

Gabríel: Allright, old boy, og með þessu skipi?

Auðunn: Ég má heita alveg ferðbúinn. Ég var ekki borinn í gær, séra Gabríel minn, því fjóra hefi ég um sjötugt. Og þó hefi ég á hálfum mánuði selt sex jarðir og falið sýslumanni sölu og innheimtu á öllu öðru,

eins og lög standa til. Og það held ég og, meir enn, hi hi hi.

Gabríel: Businessmaður, old boy! Verður kongur og Krösus eftir eitt ár í Ameríku!

Auðunn: Hi hi hi, svo þér haldið ég kunni að halda á skilding, séra Gabríel?

Gabríel við gluggann: Dear me! Kirkjugarðurinn og hlaðið fult af hungruðum sálum, sem bíða eftir boðskapnum. Þér messið og þingið með mér. Come along, old boy!

Auðunn um leið og hann tekur flöskuna og glösin: Orðalaust — 1 króna og tuttugu fyrir sálina.

Fer á eftir Gabríel.

### 3. atriði.

Helga, síðan Ása.

Helga litast um: Hvar er madama Ása? — Ég hefi hvorki eirð né yndi; að eiga að fara *nauðug* burt úr landinu og til Ameríku innan tveggja daga! Ég dey úr örvinglun. Æ, Ingólfur, Ingólfur, eigum við að skilja? Ó, þessi aumingja, ærði faðir!

Ása kemur.

Ása: Ég veit alt saman!

Helga við brjóst Ásu: Æ, ég er utan við mig, elskuvina. Sérðu hvergi ráð? Hvað á að gera?

Ása: Trúðu, þá hjálpar guð; ég get nú ekkert. En bágt áttu og bágt eigum við öll; ég veit, hvað þig tekur sárast. Líttu' á út um gluggann, hvar hann gengur með honum föður þínum, austur með kirkjugarðinum.

Helga: Æ, hann faðir minn er ær og úrvinda a

sínu hringli og stappi; hann sleppir mér aldrei viljugur.

Ása hugsandi: Líklega ekki — nema með einu móti.

Helga: Einu móti? — Sérðu nokkurt ráð?

Ása: Ég meina — ef hann Ingi minn færi líka.

Helga glaðleg: Æ, já, líka, og við færum öll! Þá fer ég líka glöð á hvert það land sem vill.

Ása: Nei. elskan mín, þú misskilur mig.

Helga: Hvernig? Misskil?

Ása: Ég meinti — ég segi, án *mín*.

Helga: Hvað þá? Að hann yfirgefi þig?

Ása með grátraust: Að — að hann yfirgefi mig.

Helga: Nei — aldrei, aldrei — einkasonurinn móður sína. En — ég meinti —

Ása: Hvað þá, barnið mitt!

Helga: Að þú — að þú færir líka.

Ása: Ég líka? Hvað hugsarðu, barn?

Helga tekur innilega í hönd Ásu: Er þess þá enginn kostur?

Ása syngur:

Ég á mér vin, ég undi löngum heima,
þó æfibrautin sjaldan væri slétt;
og hvað er mér um líf og lán að dreyma,
fyrst lukkan gaf mér þennan kæra blett.
Ég læt mér nægja mína heima haga,
þar heilög minning vígir sérhvern stein;
á munarstöðvum minna beztu daga
hjá manni og börnum hvíli ég mín bein.

Helga:

Þín fortíð er þín lukka, ljós og heimur,

þitt líf er minning, friður, ást og trygð,
en framtíð mín er valtur voða-geimur,
ef vinarlaus ég færði héðan bygð.
En hvar sem *hann* er, vil ég vera heima,
þó veröld alla legðum undir fót.

Ása:

Já, æskan líður létt um alla geima,
en lukkan bíður þó í hjartans rót!

Báðar:

Já, æskan líður létt, o. s. frv.

Helga: Hvað liggur þá fyrir mér — ef al engin von er til að þú farir?

Ása: Sonur minn má fara — ef Guð vill han fari.

Helga: Nei, ómögulegt! Ómögulegt!

Ása: Látum ekki trúna bila, þá er alt úti. Lít á, þarna koma þeir aftur. Lítt' á, og eitthvað hef um skifst, Ingi minn er kvikari í spori en áður. Heyrðu ég á líka draumkonu.

Helga: Draumkonu?

Ása: Mér þótti maðurinn minn sæli ætla að far að gefa saman hjón hérna í kirkjunni, og byrja sálm inn »Heimili vort og húsin með«. Þótti mér han syngja svo vel — þú manst, hvað hann söng vel – að ég viknaði af ánægju. Alt í einu þótti mér han snúa sér fram og kalla: »Komdu innar með brúð hjónin!« Og í því sé ég hvar séra Guðmundur kem inn eftir kirkjugólfinu og leiðir — þig við aðra, en – Ingólfur kemur inn fasmikill. Hvað stendur til, Ingólfur

Helga: Ég þori ekki að heyra, hvað hann segi

Fer.

Ingólfur: Því hleypur hún út? Hvað þykir henni?

Ása: Vertu hægur, sonur minn.

Ingólfur: Flýr hún mig? Hvað er að?

Ása: Hún veit alt, hún er úrvinda. En um hennar hjartalag þarftu ekki að efast. Hverju svaraði Auðunn?

Ingólfur: Hann er hringlandi, hann er vitlaus, staðráðinn, segir hann, að fara til Ameríku, fara strax á morgun, fara með Helgu.

Ása: Og Auðunn gamli synjar þér Helgu?

Ingólfur: Nefni ég Helgu, svarar hann »Ameríka«, segi ég nei, segir hann já, segi ég já, segir hann nei. Þessi erki-ár, hann Gabríel, hefir alveg umsnúið hans maurahausi.

Ása: Hart er að knékrjúpa Auðunni, eða gjörði hann þér engan kost?

Ingólfur: Verri en engan. Hann segir ég geti elt sig ef ég vilji til Ameríku, og verið þar vonbiðill Helgu svo sem 6 eða 7 ár, en vinna hjá sér þangað til.

Ása: Og hverju svaraðir þú?

Ingólfur: Ég svaraði því, að við þig mundi ég aldrei skilja, eða — það er víst óhugsandi að þú fengir af þér að fara vestur líka?

Ása: Óhugsandi er það, Ingi minn.

Ingólfur: Vissi ég ekki? Hvað á þá að gera?

Ása herðir sig: Fara; far þú — í Guðs nafni.

Ingólfur: Skilja þig eftir eina og aðstoðarlausa! Þig, móður mína, ekkjuna, ellimóða?

Ása: Ég er ekki ein, ég er enn eigingift kona.

Ingólfur: Hvað ættirðu eftir, ef ég færi frá þér?

Ása: Heilan, stóran helgidóm — syngur:
Kom, sonur minn, sjáðu þar kæri
hvar snót á óðal sitt:
und sonar Guðs signuðum krossi,
þar sefur lífið mitt.
Bendir út.

Öll veröld með Vesturheims sælu
mér veitir ei betra hnoss
en hjá mínum saknaða sofa
þar sérðu Drottins kross!

Bæði:

Öll veröld með Vesturheims sælu
mér / þér } veitir ei betra hnoss, o. s. frv.

Þau fara.

## 4. atriði.

Auðunn, síðan Ása.

Auðunn kemur þreytulegur: Madaman gerir mér orð. Kallar: Madama Ása! Nei, ég verð þá að hinkra við, þó nú sé ekki til setu boðið. En hvað ætli hún fari að nöldra um, skepnan? Kannske um klárinn, sem hún segir að ég hafi sligað; eða um kaffið góða, sem hún upp á stendur að eftir standi — nei, það kemur, hérna að segja, upp á annað, veit og sér hvað eina. En — bíðum hægir: það er biðilsmálið. Nei — hér er ekkert að hafa, ég vil ekki vita af því, þó ættin þyki góð. Helga fer með mér — hún er mér meira en ómissanleg, telputuskan. Nú, ef strákurinn færi líka? En þá kerlingin, madaman? Kannske ég ætti að kosta þau bæði! Ég á nú ekki annað eftir! En

ef telpan mín brjálast? Ónei, henni batnar í Ameríku. Umlar og gengur um gólf. Smáskuldirnar, bannsettar fari þær; bannsett fari bónakvabbið, bannsett fari greiðasemin, greiðviknin og lánin — smálánin — þau fara eins og hann arkar-krummi. Bíðum við, 69 og 20, það eru níutíu, nei, tíutíu, nei-nei, minna, nei, meira — ein króna vel króna; ístöðin 4 og 50, skinnhaldið 26, hvað er nú það? — má fá mér krít, og svo er svefninn, hef ekki sofið í sex nætur nema fuglsnyt í einu. Æ, smáskuldirnar og smáþjófana ætti að hengja saman. Fáir eru stórþjófar, fáir erkibófar, en flestum verður hált á smáviðskiftunum. Og jæja, svona er breyskleiki okkar mannanna. Ég má enn til að vaka í nótt til að finna sveitungaskammirnar. Þá á ég enn þá kálfskinnið hjá honum Símoni í Sultarskarði; jú, og lokið af litla strokknum, sem var léð að Kyrnukotshjáleigu. Og enn er ótalið orma-kornið, sem ég seldi Gizuri á Gæruskinni. Tvo hrútshyrninga á ég óborgaða hjá Hans í Horkoti, lífs eða dauðum — einhver sagði hann sálaðan í morgun, og þá er ekki eftir þar utan börnin, og Bjarni og Dísa bæði brjáluð, og — hnígur í bekkinn og hrýtur; rumskar og segir í svefnrofunum: Þetta, þetta leggst þyngst á sálina og gerir viðskilnaðinn gallbeiskan fyrir gamlan mann. Simbi! — Hans í Horkoti! ertu lifandi? Nei, þú ert dauður. Sofnar og hrýtur.

**Ása kemur inn og sér ekki Auðunn.**

Ása: Svipul verður mér sona-eignin, sagði Ásdís á Bjargi. Fimm synina hefi ég lagt í látinna gröf, og nú býst sá eini, sem eftir er, að fara til Ameríku. Hann má til að fara. Æ, mitt blessaða barn, með svipinn og sálina hans föður síns! Hvílíkur missir!

Guð minn, ekki minn — og þó — hvernig *get* ég nú þetta — þetta? Og samt verið róleg. Ég *er* róleg —

Auðunn í svefni: Sleptu mér, Jón á Skeiði! Víst seldir þú jörðina af heyleysi, en bannaði ég þér að heyja? Græddi ég þúsund dali? -- Æ, þar misti ég skjóðuna — skjóðuna — æ!

Ása: Ung hefði ég ekki afborið hálft mótlæti við þetta. Hvað manneskjan getur breyzt: meðan maður er ungur, er honum þetta líf og þess vonir eitt og alt — nema andinn og hjartað sé snemma hrifið af valdi hins guðlega og góða og öllu því, sem breytir meðlæti og mótlæti í blessan og guðsgjöf. En í ellinni kemur kyrð og kveldró yfir lífið, og, satt að segja: hafi þessir lífsstormar stórkostleg áhrif úr því á mannsins hjarta, er hann annaðhvort óeðlilega ungur eða illa gamall.

Auðunn í svefni: Þarna fór hann ofan í forina, skildingsskömmin — spesían! Æ!

Ása: Guði sé lof fyrir það djúp auðæfanna—sorgar sem gleði, sem mér hefir í skaut fallið. Ég er þó rík —

Auðunn sem fyr: Ég er snauður, blásauður! Alt er hrifsað — stolið. Ég fer á vonarvöl!

Ása: — stórrík af reynslunnar gulli. Gleðin mín er silfur, sorgin er gull, og tárin mín — trúarinnar perlur.

Auðunn æpir: Þar hrundi það! Helga, Helga! Taktu í mig! Séra Guðmundur, ég er að hrapa! vaknar og rís upp.

Ása hrökkur við og sér Auðunn: Eruð þér þar, Auðunn?

Auðunn: Æ! Ójá — ég valt út af. — Þér

gerðuð mér orð. — Ég er orðinn annað slagið ónýtur. Ég vona þó að okkar viðskifti séu kláruð.

Ása: Ekki er ég nú alveg viss um að svo sé, Auðunn.

Auðunn: Ekki? Það hefir engan stað. Ég hugsaði að þér ættuð ekki eyrisvirði inni hjá mér.

Ása: Látum svo vera; ég kann ekki smáreikningana. En er hitt satt, að þér séuð ráðinn í að leggja af stað til Vesturheims á morgun?

Auðunn: Ég veit ekki til að okkur Helgu sé neitt sérlegt að vanbúnaði, því fararefni hefi ég.

Ása: Mikið ráðist þér í, jafngamall maður. Sú verður óefað yðar lengsta og síðasta eða næst-síðasta ferð.

Auðunn: Næst-síðasta? Hvað meinið þér, madamá góð?

Ása: Ég meina þá ferð, sem allir fara síðasta.

Auðunn: Hm! Á þá ferðina get ég mint mig sjálfur, en ég þykist eiga nóg með þessa fyrst. Varla hefði þetta brask í mig dottið, ef Auðunn ætti ekkert eftir óklárað í henni verslu.

Ása: Í fyrri daga hefði þetta verið kallað feigs manns flan, því lifað hafið þér nú hið fegursta.

Auðunn: Og þér líka, madama góð. Það segir seinna frá þessu.

Ása syngur:

Hvað ætlar þú? Á enda stendur æfin þín?

Auðunn:

Ég yngist upp í Ameríku, Ása mín.

Ása:

Þig glepur enn þín gróða von á grafar þröm.

A u ð u n n :
Er öfundin á álnum mínum enn þá söm?

Á s a :
Nei, Auðunn, sjálfur eiga máttu auðinn þinn.

A u ð u n n :
Svo talar hún, sem aldrei átti, aumingjinn.

Á s a :
Ég á þann sjóð, sem aldrei færðu átt né keypt.

A u ð u n n :
Ég hélt þín lönd og lausu aurar lægju dreift!

Á s a :
Er gullið enn þá gæfan öll og gleðin þín?

A u ð u n n :
Hvað, gullið? Er ei gaman að því, góðin mín?

Á s a :
Og alt að einu, Auðunn karl, það er mín spá,
að beinin þín þú berir Íslands brjóstum á.

A u ð u n n :
Nei, komast mun ég klaklaust fyrst til Kíkagó.

Á s a :
Á Garðarshólma gröfin fær þitt gamla hró!

A u ð u n n : En — hvað var erindið, madama góð!

Á s a : Ég vildi vita, hverju Auðunn svaraði Ingólfi syni mínum í dag.

A u ð u n n : Honum Ingólfi? Nú, jeg svaraði honum því, madama góð, að við Helga mín mundum ekki skilja lifandi, hana nú. Því, sjáið þér, hvaða vit væri það fyrir mig, afgamlan, að fara í aðra heimsálfu án þess að hafa telpukindina mína með mér til að þjóna mér?

Ása: Ég spyr, Auðunn, veittuð þér syni mínum fulla synjun?

Auðunn: Hver ætli að vildi héðan af þjóna mér með fullri dygð, ef telpan yfirgæfi mig? Enginn, enginn, madama Ása; mig elskar engin sál úr þessu, ég þekki veröldina, henni er ekki trúandi til neins nema ills.

Ása: Buðuð þér ekki syni mínum far vestur?

Auðunn: Jú, víst sagði ég að honum væri velkomið að fara líka — mér kostnaðarlaust, náttúrlega, og enda hafa von um Helgu litlu síðar meir, ef alt færi vel, og hann þjónaði mér trúlega nokkur ár fyrst.

Ása: Fyrir nokkrum árum hefði það þótt fyrirsögn, að hann sonur okkar séra Jóns míns ætti eftir að vera vonbiðill yðar dóttur, þó góð sé, máske eins lengi og Jakob vann fyrir Rakel.

Auðunn glottandi: Nú, það vænti ég að hann Ingólfur sonur hans séra Jóns míns heitins eigi ekki svo fáar jarðarþúfurnar, því það vitið þér fullvel, að hún Helga stendur til að losast við sveitina einhvern tíma.

Ása: Storkun yðar, Auðunn, þoli ég, en vita megið þér það, að hefði minn sálaði fetað í yðar fótspor, og safnað auði, sem mölur og ryð getur grandað, þá er óvíst hvort þeirra tveggja væri auðugra nú. En ekki skal lengi lítils biðja, en þó segir mér svo hugur um, að Ingólfur og Helga eigi eftir að njótast, en fyrir Auðunni ríka liggi að bera bein sín á þessu landi. Fer.

Auðunn einn: Bera bein sín á þessu landi! Nú, þá það, en telpunni sleppi ég aldrei í höndur manni, sem ekki á bót fyrir skóinn sinn — ef ég má

ráða. Hver tekur hana frá mér nauðugum? Hver þekkir ætt hennar hér? Þessi nýi prestur? Ekki held ég. — En drambið í kerlingarsauðnum! Þetta er henni mátulegt, því þó hún sé Helgu góð, hefir hún alt af mig öfundað og fyrirlitið. Aldrei sárnar henni fyr en ég minni hana á örbyrgðina hennar, en álnirnar mínar. — Víst er þó skemtun að skildingaskömmunum. Hvað er ekki mögulegt með auðnum? Satt að segja er alt falt fyrir peninga, sem sýnilegt er, heyranlegt og þreifanlegt. Er það ekki skrítið, að menn hafa trúað á stokka og steina, sól og stjörnur og jafnvel á ósýnilega hluti, en engin þjóð hefir enn trúað á auðinn, mér vitanlega, nema hafi gullkálfurinn hjá Gyðingum átt að þýða Mammon eða eitthvað þess konar. Raular:

Almáttugi auður!
Ef ég væri ei dauður,
gamall gigtar sauður,
gjarnan skyldi' eg styrkja,
greiða gjald og yrkja,
svo að þér, þér, þér —
svo að þér í heimi hér
heilög bygðist kirkja!

Fer.

---

## ANNAR ÞÁTTUR.

**Hlað milli bæjar og kirkju. Fundur. Gabríel stendur á steini á miðju sviði, en vesturfarar og annað fólk umhverfis.**

G a b r í e l syngur:

Með góðum boðskap Gabríel
  nú gleður svein og píku;
ég heim til Íslands synti' á sel
  frá Suður--Ameríku!

F ó l k i ð :

Hvað er að heyra!
Hvað segir hann meira?
Höfuðengli hlýðum og bíðum!

G a b r í e l :

Ég kominn er til klakalands
  að kasta af fólki helsi,
og leiða alla utan stanz
  í Ameríku frelsi.

F ó l k i ð :

Laglega' hann syngur,
leikur við hvern fingur.
Hlusti hver og hlýði með prýði!

G a b r í e l :

Ég heiti nú á hvern þann mann,

sem hefir réttan kollinn,
að kveðja þennan kvalarann
og koma' út yfir pollinn!

F ó l k i ð :

Sjáið hvað hann segir,
sælu brosa vegir,
hætta rauna hríðir um síðir.

G a b r í e l :

Ef nokkur hefir sút og sorg
og sára þröng í búi,
þá sigli' hann upp þá Síonsborg
og sultar grenið flúi.

F ó l k i ð :

Leyfist að svara?
Lofið mér að fara
burt frá kulda kaunum og raunum.

G a b r í e l :

Ef sveitaþyngsli, skort og skatt
og skuldir þarf að flýja,
þá komið, komið, komið hratt
til kostalandsins nýja!

F ó l k i ð :

Þey, hvaða skratti,
þar kemst ég úr skatti,
skuldasúpu svalli og bralli!

G a b r í e l :

Hér vaða allir aur og elg
og eru skuldum kafðir,

þar kasta allir ellibelg
  og eru gulli vafðir.

F ó l k i ð :

Sjáið þið bara!
Sjálfsagt er að fara
út úr okkar vafsi og krafsi.

G a b r í e l :

Hér lifir bóndinn þurfa-þræll
  og þjónar dönskum milding,
í Ameríku er sérhver sæll,
  og svarar þó ei skilding.

F ó l k i ð :

Drottinn minn dýri
dragðu' oss upp úr mýri!
Flýtum oss sem fljótast og skjótast.

G a b r í e l :

Hér kvelur alla frost og fár
  og frekur hafís-skolli,
en þar er hlýtt um öld og ár
  svo aldrei frýs á polli.

F ó l k i ð :

Blessaða blíða!
Burt með allan kvíða!
Komum, far oss kaupum og hlaupum!

G a b r í e l :

Hér fæðist alt með Adams synd
  og óláns tötrum vafið,
en þar er alt með Edens mynd
  og engilhvítt sem trafið.

Fólkið:

Háleitt er að heyra,
helgur eða meira
verður hver þar vestur og prestur!

Gabríel:

Sem kongar lífsins gegn um göng
þar ganga allir jafnir,
og verða loks með sigursöng
í silfurkistum grafnir.

Fólkið:

Drottinn minn dýri,
dragðu oss upp úr mýri!
Komum, far oss kaupum og hlaupum!

**Gabríel fer af steininum. Ys og hávaði.**
**Auðunn stígur upp á steininn.**

Auðunn:

Þey, þey, hér heyrist ei hundsins mál
fyrir horngrýtis gelti —

Jón á Gili **drukkinn:**

þín nirfils sál!
vilt *þú* fara að prédika, púkinn leiði,
sem prakkaðir út úr mér jörðina Skeiði'.

**Vill hrynda Auðunni.**

Auðunn:

Hjálpið mér, hjálpið mér!

Ari:

Hægðu' á þér, Jónsi
heyrum hvað hann fer með, þó hann sé dónsi.

**Jón er leiddur frá; hávaði.**

Auðunn:

Hættið að æra mig, öfundar fjandar! —
Það er upphaf ræðunnar, heiðruðu landar,
að hingað er kominn, sem vitið þið vel,
þessi Vesturheimsmaður, hann Gabríel —

Jón á Gili:

Í gapastokk með hann Gabríel,
og Golíat taki þinn húðarsel!

Auðunn:

Ef ég fæ orðið, ég ætlaði að segja —

Jón á Gili:

Það ætti að gefa honum jörð til að þegja!
Jón er aftur leiddur frá.

Auðunn:

— að ég álít að landið sé óbrúkandi,
hér var aldregi klifberi í lögmætu standi;
því hér er alt bramlað og brotið um þvert;
við bindum nautin í tagl og stert;
við reiðum þorskhausa þriðjung úr ári,
og þrí-skerum niður úr kláðafári,
við lifum við kvalir og kúgunar nauð
og kuldi og gigt er vort daglega brauð.
Mig skal ei undra þótt allir reisi —
hvern enda fær þetta peningaleysi?
Hvað mig snertir, tek ég ei einskilding inn,
en út frá mér gengur straumurinn,
í landssjóð, sveitarsjóð, sýslumann, tolla,
og svo fær presturinn reiðinnar skolla,
í dýratoll, ljóstoll, í legkaup og meir
ég læt held ég sjötíu krónur —

Bjarni:

Heyr!
Já, einhverja ögn má hann Auðunn minn borga,
hann á ekki heldur fyrir mörgum að sorga.

Auðunn:

Það var furða og mildi, ég fór ekki á hreppinn,
og fyrir því tel ég mig næsta heppinn
að leggja til hafs frá landi slíku
og lenda skuldlaus í Ameríku.

Jón á Gili veður fram.

Jón á Gili:

Gefið mér nú orðið, að gamni mínu! —
Til Auðuns: Grefillinn vorkenni rausi þínu,
þú, sem átt hundrað hundruð í jörðu,
og hleður úr spesíum Babels-vörðu,
sem þegjandi hrópar í himininn;
þú hugsar að kaupa sálina inn,
en þar er, svei mér, ein syndaskjóða,
sem sæmra væri þeim gamla að bjóða.

Auðunn:

Þegi þú, húsgangur, hylkið þitt lyga!

Jón á Gili:

Þú hlóðst úr smjörbelgjum feikna stiga,
en stiginn bráðnaði í signaðri sól
og súrsmjörselgurinn himininn fól,
en meiri var ljóssins en Mammons kraftur,
í moldöskurokum kom smjörið þitt aftur,
mér fer ei úr minni sú feitmetis signing,
það var fánaleg úrkoma, skelfileg rigning.

Auðunn hörfar frá steininum.

Auðunn:

Hann dárar mig, afglapinn, berjið hann burt!

Bjarni:

Nei, blessaðir verið þið, látið nú kjurt?

Auðunn:

Þið haldið að ég, sem er heiðursmaður,
hreppstjóri gamall og forframaður,
þoli slík hrakyrði og haugalýgi. —
Hvar er minn smjörbelgja Jabobs stigi?

Slær Jón á Gili.

Jón á Gili:

Slærðu mig? Slóstu mig? Sleppið mér burt!

Bjarni:

Þeir slást! Verið hægir, og látið þið kjurt!

Áflog og hávaði.

Jón á Gili:

Að fá svona á hann á frjálsum fundi!
Það er fádæma hart, vera sveiað sem hundi.
Æ, lofið mér betur að blessa' yfir karlinn! —
Til Auðuns: Þú byggir þér laglegan sálarpallinn;
með hálfstolinn ágirndar hrísgrjónagraut
þú heldur þú komist í Abrahams skaut,
en Belíal steypir þér stólinum frá
og stingur þér beint niðr' í Kötlugjá.
Að svo mæltu kveð ég þig, súrmjólkur-jarl!
Sjóskrímslin hafi ykkar Vesturheims brall. Fer.

Auðunn:

Þar lötrar hann burt, það var landhreinsun góð,
nú liggur á, piltar, að gefið þið hljóð!
Til Gabríels: Hér hefir gengið hávaði um sinn,

heyrðuð sér sönginn, Gabríel minn?

Gabríel:

Þið haldið mér bjóði við harki slíku,
þið hugsið við þegjum í Ameríku!
Nei, þar er málfrelsi mikið og breitt,
þó menn tali í snoppungum, gjörir ei neitt.

Bjarni:

Seg oss nú, góðasti Gabríel minn,
oss gleður að heyra talandann þinn,
um Ameríku. Er hún nú stór?
Er hún umflotið land? Er þar heitið á Þór?
Er þar sykur og brauð? Er þar kindur og kýr?
Er þar kaupstaður, hreppstjóri, vegir og brýr?

Gabríel á steininum:

Hún Ameríka er umflotið land,
þar er alstaðar lending við sléttan sand,
sem er gulgrár að sjá, líkur syrjóttri rýju,
sér í lagi að vestan, í Kaliforníu.
Ég þarf ekki að segja ykkur, það er gull,
þar sem öll hús eru af slíku full.
Menn tönglast ei þar um eitt túmark með gati,
menn taka nafar, sem heitir rati,
og bora' inn í fjöllin braut og göng,
og bera út í vættum jötnasöng.

Auðunn:

Meinar hann gull?

Gabríel:

Já, gull ég meina,
Getirðu ei trúað því, skaltu reyna;
menn hafa þann málm þar í húsaþök,

sem hestastein, vörður og Grettistök.

Bjarni:

Hver fádæmis-undur og endaleysa?
Auðunn minn, heyrirðu?

Auðunn:

Látum hann geysa.
Ég fyrirgef vel, þó hann ýki ögn.

Gabríel:

Ég hef séð gullbúin handar gogn,
heymeisa, torfhrip og tönnur í mönnum,
já, turnar og kirkjur þar sjást í hrönnum
úr logandi gullinu, alt, já alt —

Bjarni:

Er þar útigangs peningur, heitt eða kalt?

Gabríel:

Já, vetur og sumar, sem vor og haust
þar velta skepnurnar endalaust
í selengja grasinu sex feta háu,
sauðir, ær, hrútar og lömbin smáu;
og svo er þar kjarngott, að kvartil af sméri
þar kemur undan á þó um höfuðdag beri;
og síðan af tvævetrum sauð, eg sver,
er sex sinnum þykkari en nautsbringa hér,
og kýrnar þar mjólka svo miskunnarlaust,
ein málnyta fyllir heilt langskipsnaust.

Bjarni:

Er þar hlýtt eða kalt, ég er kulvís maður?

Gabríel:

Þar er kakalofnshlýindi, — ertu þá glaður?

Bjarni:

Er uppskeran mikil?

Gabríel:

Já, ekki sjaldan.
Þeir arðinn fá meira en sexhundraðfaldan
af hrísgrjónum, hveitinu, himnabrauði,
af hvers kyns gæðum og rúsínu-auði.

Bjarni:

Vex þar ekki í staupinu?

Gabríel:

Sterkasta vín
þar streymir fram sjálft eins og áin Rín;
sem mjöður er fljótið hún Missisippi,
það messuvín drekkur hvert flókatryppi.
Og síróp úr trjánum þar síast sem tjara,
en sjampavín ólgar í Níagara —
það er foss, sem þrumar með óminnis ekka
svo að ekkert lifandi þorir að drekka.
Þar vellur í grjótinu ljóstært lýsi,
þar leiftra eplin á hverju hrísi,
en sykurinn liggur í háum haugum.
Úr hunangi og mjólk við kroppinn laugum.
Þar uppsker fólkið þó enginn sái,
því ódáins smjör er á hverju strái.

Auðunn:

Er kyn þó hann gumi af Gósen slíku?
Gott er undir búið í Ameríku!

Gabríel:

Og innréttinga undurin þá,
þau yfirgengur að heyra og sjá:

Þar fer alt í lofti sem logi yfir rein,
alt landið má heita sé maskína ein;
menn ferðast í maskínum, leika sér, lifa,
menn lauga sig, klæða sig, tala og skrifa,
talast við og skrifa, þótt skilji leiðir
og skutlast á orðunum þingmannaleiðir;
menn drekka, menn borða, menn dansa, menn ljúga,
menn deyða, menn lífga, menn ganga, menn fljúga,
og meyjanna biðja með maskínukrafti —

Jón á Gili æðir fram með staur í hendi.

Jón á Gili:

Þinn maskínu-trantur skal lokast með rafti!

Bjarni:

Er hann ekki Jón kominn ösku-blindur!

Hávaði. Auðunn felur sig.

Jón á Gili:

Þið amlóðar, sjáið ei, Jón er hyrndur!
Þú gapi þarna, þú Gabríel,
þú gefur ei fólkinu í krákuskel
þína kjaftæðis-olíu úr Ameríku,
það fer ólukka og slys í magann af slíku.
Því þó ég sé ölvaður, elska ég landið,
sem ól mig og nærði; ég fer ekki grandið,
þó fengi ég allan hann Auðunn í kaup,
á Íslandi drekk ég mitt síðasta staup,
því það sver eg, brynjaður þessum rafti,
að þar hæfði aldregi skel betur kjafti.

Sýpur á pela.

Gabríel:

Well! Ég hef orðið. Út með hann Jón!

Jón á Gili til Gabr.:

Þú öslar um landið sem gráðugt ljón,
glefsandi og hrifsandi sál eftir sál,
með syngjandi maskínu-húmbúk og prjál;
þín Bileams asna, þinn Belíals þjón,
ég ber þig með raftinum —

Margir:

Burt með hann Jón!

Jón er leiddur burt.

Gabríel:

Well — yes — hér er útsæði, Ameríka,
Það má eitthvað gera við maskínu slíka.

Auðunn kemur fram:

Þegar þeir drógu' út þann dólg og sel,
þá datt af mér steinn, séra Gabríel.
En segið oss enn meir um þjóðir og þing.

Gabríel:

Ég þar um heldur eitt kvæði syng.

Syngur:

Vesturheimur er herlegt land,
herrar góðir,
eilíft geymir þar ástarband
allar þjóðir;
þar er bjart fólk og þar er grátt,
þar er bröndótt;
þar er svart fólk og þar er blátt,
þar er röndótt.

Þar er franskur með fjörugt blóð,
Finnur, Prússi,
þar er danskur með Dofra þjóð,

digur Rússi.
Hval og ljón fá þar lýðir séð,
lamb og kola,
þar er Jónatan jafnan með
Jóni bola.

Þar er húmbúkið þétt og ótt
þæft í mylnum,
yfir rúmsjúka rekka skjótt
rignir »pillum«,
þar er báglega breytin trú,
Brahmín, kristinn,
vinur Mahómeds, Mormons hjú,
Mat'ríalistinn.

Þar er daglega þingstríð háð,
þar er fjörið,
þar er haglega höndum kljáð
hvert eitt kjörið.
Margur gleymir við glæpa kró
Guði og Liscó,
þar sem dreymir við syndasjó
San Fransisco.

Þar er alt saman sætt og súrt,
sem má hugsa,
þar er falt gaman, alt, já alt,
utan slugsa.
Komið grannar of svalan sjá,
siglið vestur,
brúðir manna með börnin smá,
bóndi og prestur!

Fólkið hrópar: »Húrra! Húrra!« Hundar gelta, og menn tala hver í munn öðrum. Gabríel fer af steininum og talar sitt við hvern í hljóði meðan hinir næstu tala.

Ari á steininum: Ég er nú svo gamall sem á grönum má sjá, og hélt ég því að ég þekti veröldina, en, satt að segja, þá veröld, sem nú er að skapast þekki ég ekki. Allir þagna. Ég vil nú biðja alla skynsama menn að athuga vel sitt ráð og flana ekki burt af sinni fósturjörð fyrir blinda hvöt né blinda trú á þessum nýja boðskap. Flas er sjaldan til fagnaðar. Menn vita hverju menn sleppa, ekki hvað menn hreppa. Að vísu er veröldin öll góðra manna föðurland, eins og prestur okkar áðan sagði, en eins og hann líka tók fram, veit enginn hvað átt hefir fyr en mist hefir. Þrautir vorar eiga að brýna kraftana. Prestur tók það og fram, að þó land vort sé hart, er það litlu lakara nú en það hefir lengst af verið, enda væri þess landsstjórn og lýðfrelsi tekið að endurrísa. Hann kvað flesta landsins vitrustu menn þykjast sjá batnandi hag þessa lands í hendi; sagðist því óttast, að það væri ekki landið, sem fólk vildi flýja, heldur sjálft sig. En sjálfan sig flýr enginn maður. Fer af steininum.

Ýmsir: Ég vil tala. Má ég fá orðið? Heyrið til

Bjarni á steininum: Hve lengi eigum við að þola eymd og áþján?

Ýmsir: Heyr! Heyr!

Bjarni: Til hvers eru þessi yfirvöld? Til hvers kongur? Til hvers landshöfðingi? Til hvers yfirréttur? Til hvers þing? Til hvers amtmenn, sýslumenn. biskup, prófastur, prestur? Til hvers stöðulög, og til hvers lög?

Gabríel: Well, my boys! Málfrelsi! Málfrelsi!

Bjarni: Til hvers sú kaffibrúkun? Til hvers þau sveitarþyngsli? Til hvers það vinnufólksgjald? Til hvers allir þeir skattar, tíundir, tollar, alþingistollur, tóbakstollur, brennivínstollur, dýratollur, lögmannstollur, jafnaðarsjóðsgjald, spítalagjald, sýslugjald, manntalsfiskur, dagsverk, prestslamb, offur, útsvar?

Hávaði; hann fer ofan af steininum.

Auðunn: Og ég segi, þetta er óþolandi landplága. Þessi útgjöld drepa þá efnaðri. Hér verður varla einn köttur tórandi eftir tuttugu ár.

Gabríel: Well — yes, allright, boys! Málfrelsi!

Auðunn á steininum: Án kongsins hjálpar hefi ég hokrað það sem komið er; án landshöfðingja lifði ég rúm sextíu ár; án stöðulaganna stóð Ísland frá landnámstíð. Eða til hvers eru prestarnir? Hingað til hefir mér dugað hún Jónsbók til sáluhjálpar. Og til hvers eru skólar og skrift og reikningur? Hvað kostaði kaffið í mínu ungdæmi? Eða til hvers ólu þeir fjárkláðann? Og bráðapestin og hafísinn, til hvers er þetta alt, segið mér?

Bjarni: Og til hvers félögin, Bókmentafélagið og Þjóðvinafélagið?

Auðunn: Til hvers þjóðfélagið? Ég meina það sé eitur í hvers manns búi og niðurdrep fyrir þjóðfélagið — bana-nú.

Gabríel á steininum: Well, góðir landar og gentlimenn! Skrælinginn elskar sitt land og afsegir himnaríki nema hann fái þar selaket. Manneskjan er tómur vaninn, bræður; hún situr svo lengi í hlekkjunum þangað til hún elskar þá. Að elska sitt land er eðli-

legt og ofboð fallegt, en að elska hlekkina og selaketið, það er ekki fallegt.

Ýmsir: Heyr! Gefið hljóð! Ha, ha!

Gabríel: Ísland hefir sína kosti — synd er að að segja anuað — en Ameríka er betra land — leyfið mér að segja, þúsund sinnum betra land. Bæði Ísland og Grænland hafa sína kosti, svo sem ókeypis birtu um sumartímann, og frítt norðurljós á vetrum —

Ýmsir: Birtu og norðurljós! Ha, ha!

Gabríel: — sem reyndar önnur lönd hafa líka, en aftur vantar hér ýmsa hentuga hluti, sem ókeypis fást í öðrum löndum.

Auðunn: Segið þér okkur frá, séra Gabríel.

Gabríel: Þessi heimskautalönd vantar fyrst og fremst æskuna, þau eru forn og uppblásin, skóglaus og skriðufallin. Ameríka er ungt land, nýfætt í sigurkufli fjörs og framkvæmda, en þessi lönd liggja í hvítum náklæðum. Hér vantar skóga og akra, brýr og vegi, samgöngur og siglingar, fé og fabrikur, fréttaþræði, járnbrautir. —

Auðunn: Fallega talar hann séra Gabríel!

Gabríel: Aftur hefir Ameríka engan kong, engan landshöfðingja, enga stórskatta, engin sveitarþyngsli, engan fjárkláða, enga bráðapest, engan hafís eða harðindi á vorin, engan manntalsfisk, lögmannstoll, ljóstoll, lambatoll!

Auðunn: Gullsatt, séra Gabríel! Gullsatt, gullsatt!

Gabríel: Heyrið þá til! Ísland er fagurt land: en vantar alt; Ameríka er líka fagurt land, en hefir alt. Ísland var kostaland, en er eyðilagt af ís og eldi;

Ameríka er einn aldingarður og á ótal ónumin lönd. Ísland liggur á hjara veraldar, en Ameríka eftir endilöngum hnettinum þar sem bezt er; Ísland á landrými talsvert, en bæði ónýtt og dýrkeypt, en Ameríka er þúsund sinnum stærra land og eintómir akrar og engin þúfa — ábúð ókeypis öllum sem hafa vilja!

Ýmsir: Húrra, húrra!

Gabríel: Ísland er frægt land, en þess frægð er til grafar gengin. Ameríka er líka fræg, og hennar frægð er enn í æskunnar blóma —

Íslands sól er að sævi runnin
og sézt ei framar á sögu himni;
en á Vesturheim aldrei skyggir,
dimmi þar að vestan rís dagur austan,
þar er eilíf sól á öðru leiti.

Auðunn: Engilfagurlegana talað, séra Gabríel!

**Fólkið hrópar: »Húrra! Húrra!«**

**Tjaldið fellur.**

**Söngur bak við tjaldið:**

Þó að níði upp og aftur
Ísland margur húmbúks raftur,
meira má en mennskur kraftur
máttur Guðs og sannleikans!

Ei er kyn þó velti vinir,
veikir reynast einkasynir;
en þótt allir hlaupi hinir,
hjá þér standa skulum vér.

Fósturjörðu fræknir verjum,
fyrir Ingólfs bygðir herjum.
Hetjumóðir, hátt vér sverjum,
hrausta fylgd að veita þér.

## ÞRIÐJI ÞÁTTUR.

**Stofa sem í 1. þætti.**

### I. atriði.

**Helga kemur, hugsjúk í bragði.**

Helga: Er það mögulegt, að þetta sé skaparans ilji? Að hugsa sér, að vera þar sem hann Ingólfur ekki! Í öllum mínum draumum erum við æfinnga saman; ellegar ef ég er ein og mér þykir eitthvað auga á móti mér, þá bregst aldrei, að hann kemur g hjálpar mér. Hvernig g·tum við skilið? Við sem öfum verið saman eins og einn maður síðan við vorm fermd! Ó, að hugsa til að fara alfarinn úr landu, sjá bæinn hverfa, Gullfoss og Grænuhlíð, Dagálahyrnu og Selfellið! Hvað skyldi verða úr mér. En — ef hann færi líka? Nú, þá væri það ekkert, á væri það sama sem að fara á stekkinn. Æ nei, ún móðir hans má ómögulega missa hann; hann fer ldrei. Ó þau vandræði! En ég vil, ég *skal* ekki ;ør-'ænta. Kannske faðir minn setjist samt aftur; kannke honum verði ílt. Kannske hann séra Guðmundur — en hann er nú farinn burt að þjónusta. En þegar iann kemur skal ég biðja hann, grátbiðja hann að ijálpa mér. Kannske hann geti talið föður mínum ughvarf, sem er ær og örvita af elli og armæðu, **Hún sér spil á borðinu.** Þó það kannske sé synd, ætla

ég nú samt að spá. Spil, á ég að fara til Ameríku Leggur upp nokkur spil. Nei, laufagosinn. — Fer han Ingólfur? — Nei, spaðagosi. — Förum við bæði? — Spaðatvistur. Þau neita öllu. Kannske þau vilji sp því bezta. Hvíslar: Eigum við að ná saman? hát hjartakongur! leggur spilið að vörunum Ó, að þig væ að marka! flettir spilunum og slær út. Í hálfum hljóðum Hann elskar mig af öllu hjarta — yfir máta — of heitt — harla lítið — ekki neitt. Já, já, þetta va verra. Betur! Hann elskar mig — þarna kom þa rétt! Æ, þar kemur einhver kastar spilunum. Ingólfur kemur.

Ingólfur grípur hendur Helgu: Nú eru lokuð sund öll. Við eigum að skilja!

Helga: Og þetta segirðu blátt áfram: »við eigum að skilja!«

Ingólfur: Hvað átti ég að segja? Átti ég að fela mig, eða flýja, eða skrökva?

Helga: Veiztu ekki að þú deyðir mig, Ingólfur!

Ingólfur: Hvað á úr að ráða? Þú veizt alt saman.

Helga: En sérðu ekki hvað ég á bágt? Veiztu ekki að ég er örvingluð og get ekki af mér borið?

Ingólfur: Ég veit það, Helga. En hvað get ég eignalaus; faðir þinn er hálfbrjálaður, neitar mér ýmist alveg um þig eða þá setur mér þá kosti, sem mér er ómögulegt við að una.

Helga: En heldur þú að þó hann sé svinnur neiti mér um að sjá fyrir þér á leiðinni, og þá koma dagar og þá koma ráð, ef bara hún móðir þín vildi fara.

I n g ó l f u r : Alt mundi lagast ef hún vildi fara, en nú fer hún með engu móti. Hún segir að sönnu, að ég megi fara, en hvernig *get* ég það? Ætti ég að slíta mig frá slíkri móður og það munaðarlausri og nær því á vonarvöl?

H e l g a heldur fyrir augun: Þú segir satt; þú ferð ekki, þú getur ekki farið — meðan hún lifir.

I n g ó l f u r : Hugsaðu þér, ef ég færi og hún yrði eftir: ætli margar heilladísir fylgdi mér af fósturjörðunni eða fögnuðu mér í þeim nýja heimi. Ill samvizka, sorg og slys mundu elta mig land úr landi, og aldrei mundum við að heldur njótast.

H e l g a : Guð hjálpi þér! Hef ég nokkru sinni sagt að þó ættir að yfirgefa hana móður þína? Hef ég ekki sagt hitt, að þú ættir að finna upp eitthvert ráð, taka eitthvað til bragðs. Ó, sýndu nú að þú sért mikill maður, Ingólfur. Ekki hefði köppunum í sögunum þótt mikið fyrir að ráða fram úr þessu. Ingólfur! hallar sér í faðm honum veiztu ekki að við getum *ekki* skilið? Manstu ekki, að þú hefir svarið og sagt: Helga, ég sver þér, að ég vil fyr deyja en skilja við þig? Manstu líka hve nær það var?

I n g ó l f u r : Það var þennan sama dag í fyrra.

H e l g a syngur:

Þú leiddir mig, ljúfasti vinur,
á ljómandi miðmorgunshól,
þú sýndir mér elskunnar auglit
í árdagsins skínandi sól.

B æ ð i :

Þá sáum við elskunnar auglit
í árdagsins skínandi sól.

Helga:

Þú sagðir, ég sver þig að elska
uns sálin mín leysist frá mold;
það heyri sá voldugi herra,
sem himininn skapaði' og fold.

Bæði:

Það heyrði sá voldugi herra,
sem himininn skapaði' og fold.

Ingólfur: Sé ég ráðið — þú mintir mig á kappana.

Helga: Hvað kemur þér í hug?

Ingólfur: Ráðið er fornmannlegt, en vertu þá líka eins og fornkona.

Helga: Segðu það.

Ingólfur: Ég nem þig á burt, fer með þig í næstu sveit og leini okkur þar báðum, þar til karlinn gjörir annaðhvort: fer án þín til Ameríku eða hættir við og sezt aftur.

Helga: Þetta gjörir þú ekki — getur ekki.

Ingólfur: Ég get það víst og gjöri það nú þegar í nótt. Þegar allir eru í svefni hef ég söðlaða hesta við túngarðinn, og við í loftinu á stað.

Helga: Ó, að við gætum þetta! En — ég get það ekki — má það ekki; faðir minn er aumingi, hann bæri það ekki af. Og þó — hann settist þá aftur. En —.gerði ég ekki rangt? og hún móðir þín — talarðu ekki fyrst við hana?

Ingólfur: Hún samþykkir — allir samþykkja þegar það er gjört. Ó Helga, ég treysti mér til alls; ég hef nóga krafta, nóg áræði.

Helga: Jú, jú, og þó er ég efablandin; að gjöra rangt, strjúka; við — þú hefir ílt af því. Veiztu ekkert annað ráð?

Ingólfur: Nú hef ég sagt þér mitt ráð; findu nú annað.

Helga: Mér dettur í hug að við tölum fyrst við hann séra Guðmund — hann ann mér eins og faðir og segist vera frændi minn, eða hefir þú hreift þessu máli við hann?

Ingólfur: Seinast áðan þegar hann reið burt, en hann eyddi því og sagði: »Hér er engin hætta á ferðum, Auðunn fer ekki spor og enn síður hún Helga«, og svo reið hann af stað.

Helga: Ótrúlegt er að hann fari ekki, altilbúinn maðurinn, eða hvað heldur þú?

Ingólfur: Ég þykist viss um það, að hann fer, og hver kostur er þá annar en að ég taki mitt ráð í tíma.

Helga einbeitt: Vel og gott; ég skal fylgja þér, en lofaðu mér þó fyrst að tala við séra Guðmund og segja honum frá okkar fyriræltun.

Ingólfur: Ég lofa því, en með þig fer ég burt í dag hvort sem séra Guðmundur segir já eða nei. Gjör þig tilbúna. Nú skal skríða til skarar.

**Þau fara.**

## 2. atriði.

**Hlaðið eins og áður. Gabríel situr við lítið borð, en margir Vesturfarar standa umhverfis.**

Gabríel **opnar bók sína; syngur:**

**(Lagið: *Nu saa kom allons.* Úr »Nei«).**

Hafið hraðann á,
harðri ferð erum á

ég hef harðla marga enn hér að skrá.
Komið hjú mín klók,
ekkert mas né mók
í mína lífsins bók!
Hvað — hvað — hvað heitir þarna þú?

Vesturfari:

Þorgeir frá Beitarhúsum.

Gabríel:

Nú.

**skrifar.**

Vesturfarinn:

Ég er Sölfason,
hefi vissa von
um vist í Madison.

Allir:

Hann er Sölvason,
hefir vissa von
um vist í Madison.

Gabríel:

En þú yngis*miss*,
ég er öldungis viss
Þú átt í vonum biðil þinn og *kiss*,

Stúlka:

Hér er Sigurlín.

Gabríel:

Bæði fjong og fín,
og ferð?

Stúlkan:

Til Wisconsin.

Gabríel:
Kona, með krakkana þá tvo,
Kom þú.

Kona:
Ég þakka fyrir, sko
Séra Gabríel,
Job og Gamalíel,
ég geymslu þinni fel.

Allir:
Séra Gabríel,
Job og Gamalíel
ég geymslu þinni fel,

Gabríel:
En hver ertu sjálf?

Konan:
Ég er ekkja eftir Kálf —
heiti Ingunn í Lág —

Vesturfari í lágum hljóðum:
hún er kölluð »hálf«.

Konan:
Upp við fjöll ég bjó,
svo ég fælist sjó,

Gabríel: skrifar
og ferð?

Konan:
Til Kíkagó.

Gabríel: stendur upp.
Svona, nú brýt ég hér í blað,
bezt er að flýta sér af stað;
Nú er setið nóg,
hér á sálna sjó,
í sannleik vel ég dró!

Allir:
Nú er setið nóg
hér á sálnasjó,
í sannleik vel hann dró.

Gabríel: Fimtíu sálir á fáeinum klukkutímum, — well — yes — dável dregið. Signor Auðunn! Hvar er gamli Auðunn?

Konan: Hann brá sér karltetrið til næsta bæjar, að það segir, til þess að taka pjönkur af flökkukind upp í skuld — hana — nú. En, hvað ég vildi segja, en ekki þegja, er það alveg ómögulegt, séra Gabríel, að ég fái að koma henni Bröndu minni með mér yfir í hana Ameríku? Þvílík kýr, þvílík höfuðskepna, séra Gabríel.

Gabríel: Well, gamla sál, nó — nei, nógar höfuðskepnur í Ameríku. Ómögulegt, kýrin steingeldist á leiðinni, verður skorin í New York og skinnið selt í Cincinnati.

Konan: Spyr sá sem ekki veit, séra Gabríel, en það verður mér sár viðskilnaður þegar ég á að kveðja hana Bröndu. Ég man það í gærkveldi þegar hann Job og hann Gamalíel voru að kveðja kálfinn; þarna veltust blessuð börnin eins og ánamaðkar ofan eftir hlaðbrekkunni með kálfinn í milli sín. Ég segi það satt, þeir vildu ekki, hann Job minn og hann Gamalíel, að ég seldi hann og ég ætlaði mér ekki að lóga honum, en hvað gjörir ekki neyðin, séra Gabríel? Mig vantaði, svo sem ég sagði þér, þessar sextán krónur upp í fargjaldið fyrir mig og börnin. Haldið þér eg fái jafngóða kú fyrir handan?

Gabríel: Enn meiri höfuðskepnu, þrílita kú og tvo kálfa, annan fyrir master Job og hinn fyrir Gamalíel.

Konan: O kyssið þið blessaðan prestinn! Jobbi, Gammi, Gammi, kyssið þið hann, sona, og hnegið hnén, sona. Hnegir sig.

Drengirnir: Lofaðu okkur að kyssa þig, Gapajel!

Gabríel býður kinnina: Well, rascals!

Konan: Og má ég ekki gera eins og börnin?

Kyssir Gabríel.

### 3. atriði.

Stofan hjá madömu Ásu.

Jón á Gili kemur og styður Auðunn, sem er haltur og stynur við: Tyltu þér þarna, tuskan mín, meðan mesta hörmungin hjálíður. Hjálpar honum að setjast og stumrar yfir honum.

Auðunn: Hægt, hægt, Jón garmur.

Jón: Þetta hugsáði ég lengi; ekki eru allar ferðir til fjár, hugsaði ég í dag þegar þú réttir mér á hann. Hugurinn mikið höndin lítið hefir oft.

Auðunn: Það — það eru stirð gamalla föll, Jón sæll.

Jón: Sleiktu af þér! Hver þremillinn rak þig til að elta hann Hall hærupoka, þó þú ættir hjá honum átján aura?

Auðunn: Tuttugu og fimm voru þeir. Æ, vægðu heldur til við mig, tetrið mitt. Farðu hérna ofan í vestisvasann minn — ég get hvernigan handlegginn hreift eftir fallið. Láttu hitt vera, en taktu tvíeyringinn fyrir það sem þú hjálpaðir mér. Jón leitar

í vasanum. En æ, ef það skyldi vera satt, að hún Helga mín sé strokin með honum Ingólfi, æ!

Jón: Skrattinn má brenna á lófa sínum þann eyririnn, sem hér fyrir finst; hann hefir elt hana Helgu þína, sem líka er búin að kveðja þig fyrir fult og alt; ég sá þau ríða í loftinu austur fyrir hádegishól.

Auðunn: Þá er ég alveg eyðilagður maður á sál og líkama. Og gullpeningurinn farinn — hefir hrokkið ofan í gilið, og Helga farin! Æ!

Jón: Víst ertu eyðilagður, en við hverju var að búast! Ég held sá gamli gaur hafi riðið þér við einteyming, að þú skyldir fara að ónáða einn guðs volaðan rétt í því þú varst að kveðja þína fósturjörð og áttir að fara að lesa langferðamannsbænina. Það fer ekki hjá því, að Kölski er löngu orðinn illur og ergilegur yfir því að fara með þig sífeldan selflutning, og ætli sér nú að hafa á þér rekspölinn ofan í gjá glötunarinnar.

Auðunn: Það er samviskupóstur fyrir þig, Jón, að gá ekki betur að mínum kringumstæðum. Æ, hvar er telpan mín, telpan mín?

Jón er að binda hönd Auðuns í fatla: Telpan þín er farin og alfarin. Þið áttuð aldrei samleið, Auðunn sæll, hún er himnaríkis-barn, en þú gamall glötunargarmur.

Auðunn: Ó, hættu þessu fordæmingartali; nóg er samt.

Jón: Skilurðu þá ekki að ég er að myndast við, þó meira en í veikleika sé, að aga til yfirbótar þitt afgamla skinn.

Auðunn: Æ, þú pínir mig; bittu bandið lausara.

Jón: Áttu ekki — er hérna ekki mesta þrautin!

Auðunn: Jú, Jón garmur, taktu hægt á öxlinni.

Jón: Áttu ekki — vildi ég spyrja — eitthvað í fórum þínum af gömlum spesíum? Það væri helzt mitt ráð, að þú legðir gamla spesíu við verkinn, því þá væri þess meiri von, að þú hefðir viðþol.

Auðunn: Vertu nú ekki að storka mér lengur né stríða, tusku — tetrið mitt. Á ég ekki bágt. Helga farin, alt farið, og ég kominn sona.

Jón: Hvað er á móti því að þú eigir bágt, og satt að segja held ég hálft í hverju, að skrattinn hafi farið að sem bannsettur klaufi, því ef þessar anstaltir skyldu kenna þér að sjá einhverja ögn að þér, þá er ekki enn þá lífs ómögulegt að hann verði að sleppa takinu, og þín óverðug sálarskjóða —

Auðunn; Æ, hættu þessu — ég er útgerður maður.

Jón: En þá verður þú að hætta við þitt Ameríkudrasl, því flytjirðu þangað ertu óðara kominn norður og niður, því, eins og þú mátt vita, er Ameríka beint í leiðinni.

Auðunn: Ég er nú ekki orðinn líkur því að komast svo langt þó ég hefði viljað. Æ, skyldi þetta í alvöru að tala nokkuð lagast? Hvað heldnr þú, Jón garmur?

Jón: Lagast? Bæði seint og illa, og af og frá ef þú ekki bætir náunga þínum þitt þúsundfalda snuðerí, seljir mér aftur Skeiðið með sama verði og heitir stórkostlega á Strandarkirkju.

Auðunn: Og Gabríel kominn af stað? Hann skyldi þó ekki pretta mig um það sem upp var sett? Bágt er þetta.

Jón: Þú mátt gefa mér Skeiðið, ef hann kemur aftur á þessar slóðir og borgar þér einn grænan eyri.

Auðunn: Æ, mig auman, yfirgefinn, svikinn, sárveikan, féflettan! Hvar er telpan mín! Farðu, Jón garmur, og findu hana madömu Ásu — hún er þó gáfuð og guðhrædd í sinni fátækt.

Jón: Ráðstafaðu fyrzt þínu húsi; fáðu mér mitt Skeiði; þá kemstu í hornið, fyrst hjá Helgu þinni, og síðan kannske í sælunnar höllu.

Auðunn: Jæja, komist ég það, skaltu fá Skeiðið, það er óselt enn þá, en óguðlegt væri að selja það með sama verði. Æ! ekki svo fast! hvað hugsarðu? Jæja, þá með líku — sama verði; það fer alt hvort eð er.

### 4. atriði.

Ása kemur.

Jón: Þér heyrið það, guðsbarnið góða, karlsauðurinn selur mér aftur Skeiðið með sama verði og hann sveik það út úr mér eftir niðurskurðinn.

Auðunn: Ég sagði ef hún Helga ekki yfirgefur mig.

Ása: Hvað er nú, Auðunn, þér eruð meiddur og Helga í burtu; ætlið þér enn til Ameríku?

Auðunn: Án hennar Helgu? Hver ætti þá að annast mig veikan, aldraðan, senn allslausan? Hvernig farið þér að tala svo skynsöm og góð kona? Sjáið þér ekki að ég er orðinn aumingi?

Jón við gluggann: Koma þau ekki þarna þeysandi, séra Guðmundur, Ingólfur og Helga?

Ása lítur út.

Auðunn: Æ, þar datt af mér torfa. Hvað sagði ég, Jón, sagði ég ekki einum þriðja dýrara Skeiðið.

Jón: Tveimur þriðju heitara horngrýtið, sagðirðu!

Ása: Hann sagði: »með sama verði«.

Auðunn: Jæja, en ekki er enn víst ég fari strax í hornið, eins víst enn ég fari dálítið lengra, ef telpan fylgir mér. Ekki er mér um að láta ræna mig.

Jón: Sleppi hann *þá* ekki takinu, mín vegna!

**Séra Guðmundur. Ingólfur og Helga koma.**

## 5. atriði.

Séra Guðm.: Heilar og sælar, madama Ása; hér eru börn yðar bæði aftur komin.

Ása: Hafið þökk og heiður, enda treysti ég yður vel að sjá ráð fyrir báðum.

Auðunn: Hvað gengur á? Hvert förstu, Helga?

Séra Guðm.: Nú, þar er þá Auðunn gamli — heilir þið. Yður Auðunn vil ég tala við í dag, því að eigi mun síðar vænna.

Auðunn: Við mig? Ég er þá hér, og farlama maður.

Séra Guðm.: Hvað hefir fyrir yður komið?

Auðunn: Nærri því úr liði öxlin — sjáið þið og þér, madama góð, og þú Helga mín. **Þau fara að skoða Auðunn.** Datt í kvöld á staðinn þar sem gigtarskömmin áður grasseraði. En svo bættist það ofan á að mér var sagt að telpan mín væri strokin. Reyndar hefir mér stórum skánað við að sjá hana aftur tetrið; alt af er hugurinn sami, séra Guðmundur minn.

Séra Guðm.: Máske þér hugsið enn til yðar vesturfarar.

Auðunn: Helzt er það ráðið, og það strax á morgun ef ég treysti mér mögulega, prestur minn.

Séra Guðm.: Helga er myndug og kveðst ekkert fara.

Auðunn: Og víst fer hún, telpan, og ekki er hún myndug.

Séra Guðm.: Hvað segir þú, Helga?

Helga: Séra Guðmundur svarar fyrir mína hönd.

Séra Guðm.: Helga fer ekki spor, Auðunn.

Auðunn: Neiti hún að fara gjörir hún sig arflausa eftir minn dag. En hví skyldi hún ekki fara? Á hún ekki að hlýða föður sínum? Er hún ekki Auðunsdóttir?

Séra Guðm.: Að vísu er hún Auðunsdóttir, en ekki yðar dóttir. Hér er hennar ætterni og lögfull skírteini. **Auðunn lítur á skjölin og leggst höggdofa aftur á bak.**

Ása: Hér koma nýjar og góðar fréttir.

Séra Guðm.: Séra Auðunn bróðir minn sendir mér þessi skjöl að austan og selur mér það umboð í hendur að stöðva ferð Helgu til Ameríku. Forlagseyri hennar þurfið þér ekki að skila, en fóstri yðar er nú lokið. Eða því leynduð þér hér alla ætt hennar?

Auðunn **auðmjúkur og kjökrandi**: Ég unni telpunni, prestur minn, þó slæmur væri, enda vissi ég ekki annað en að hún væri orðin föðurlaus fyrir tveimur árum síðan. En hjá mér hefir hún verið síðan ég flutti vestur og faðir hennar var ytra. Æ, það var mín trú, séra Guðmundur, að alt lánaðist og blessaðist fyrir mér á meðan telpan mætti mín heita. En allra daga kemur

kvöld, og ég er nú fátækari maður en þó ég hefði fimm jarðir látið.

Á s a : Betur hafa Auðunni aldrei orð farizt í mín eyru, en mikið lán höfum við öll af yður, séra Guðmundur. Hvað segið þið börn?

Hún leggur saman hendur Ingólfs og Helgu.

H e l g a : Náðið þið föður — fóstra minn.

I n g ó l f u r : Ekki skal ég því spilla. Lánið vekur líknsemi.

A u ð u n n : Takið heldur alt af mér en telpuna.

J ó n : Nú fer flest að lagast. Þú lætur mig hafa Skeiðið, gamli minn, og hneppir þig svo í hornið hjá Helgu þinni.

H e l g a : Já, ef þú hættir við alla ferðina, þá máttu fyrir mér vera faðir minn sem fyrri og ég dóttir þín alla æfi.

Á s a : Ef þér, Auðunn, farið að verða vel kristinn maður, og meinið ekki Helgu og syni mínum samfarir, þá má alt vera sem áður.

S é r a G u ð m . : Má alt vera sem áður! En hve nær sem þér hreifið Ameríkuferð, er Helga yður óviðkomandi og undir minni umsjá.

J ó n : Og ég fæ Skeiðið?

A u ð u n n : Veri þá alt sem þið viljið. Vertu sæll, auður, segir Auðunn. Vertu sæl, Ameríka, ég fer í hornið til Helgu minnar. Ekki verða allar ferðir til fjár, en friðurinn kostar líka mikið. Ingólfur fær þá Helgu, Jón Skeiðið og ég hornið, og þið fáið þakkir, séra Guðmundur minn og madama Ása.

Á s a: Eins og þessi dagur áður var minn þyngsti sorgardagur, eins er nú minn mesti gleðidagur.

**Tjaldið fellur snöggvast, en þegar það er aftur upp dregið standa fjórir ungir og velbúnir vesturfarar á leiksviðinu. tveir karlar og tvær konur.**

**Þau syngja, en aðrir á bak við taka undir.**

Vort kæra land, vér kveðjum þig með tárum,
þó köld og hörð þú fyndist marga stund,
þó hold vort berist burt á fleygum árum
vort betra ég er kyrt á þinni grund.
Sem grimman val ei fyrri sorgir særa,
en sinnar bráðar lítur dreyra flóð,
eins finnum vér nú fyrst, vor móðir kæra,
að fósturjörðin á vort hjartablóð!

Og þegar sjórinn þína tinda hylur
og þurrum augum störum vér í tóm,
oss frá þér, Ísland, ekkert framar skilur,
því allir hlutir fá þinn svip og róm.
Þú ert, þú verður inst í voru hjarta,
vor æra tign og hrós í lífi og deyð;
þú ert vér sjálfir, ástarfoldin bjarta,
vér elskum þig, þó flýjum böl og neyð.

Ó móðir, móðir! sollin þúsund sárum,
hve sorgardjúp er harma þinna lind,
og mæða vor er meiri en svari tárum
að mega ei græða þína píslarmynd!
Ó Ísland, gjör oss enn að sterkum hetjum,
sem ekkert stöðvar hvorki land né sjár,
svo vinnum eið og hver þess annan hvetjum,
að hefna fyrir öll þín blóðug sár!

Ver sæl, ver sæl, vér sverjum þig að muna,
vér sverjum allir þess að verða menn;
vér sverjum hvergi yndi að fá né una
ef ei þér manngjöld borgum tvenn og þrenn.
Far vel, far vel, ó fósturjörðin kæra, —
í fátækt þinni gafst oss meir en auð, —
vér siglum burt að sækja þér og færa
frá Sigurströndum frelsi, líf og brauð!

**Tjaldið fellur.**

